# SAMEININGIN.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

---

FJÓRTÁNDI ÁRGANGR:

## Marz 1899—Febr. 1900.

---

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*



ÚTGÁFUNEFND: Jón Bjarnason, Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal. Rúnólfr Marteinsson, Jònas A. Sigurðsson.

---

WINNIPEG.
Prentud í prentsmiðju Lögbergs.



Kirkja Vestrheimssafnaðar.



St. Páls kirkja í Minneota.



Fyrsta lúterska kirkja í Winnipeg.

# EFNI.

Í fjarvist séra Jóns Bjarnasonar hafði séra Rúnólfr Marteinsson á hendi ritstjórn „Sam.“ frá Júní til Okt. 1899 (nr. 4—8 af þessum árgangi).

# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

14. árg. WINNIPEG, MARZ 1899. Nr. 1.

## Á föstunni.

Sorglega einkennilegt er það, að þeir menn, sem styðja það, er vér í ljósi kristindóms-opinberunarinnar erum sannfœrðir um að er illt mál, fylgja marg-oft því máli með meiri festu og einbeittara viljakrafti heldr en hinir, sem eiginlega eru með hinum góðu málum. Það er eins og þeir, sem eru að berjast fyrir ríki myrkranna í mannfélaginu, hafi iðulega enn þá sterkari sannfœring fyrir því að vera þeim megin, sem þeir eru, heldr en hinir, sem í rauninni hafa tekizt á hendr að styðja ríki guðs og sannleikans. Þeir, sem trúa á það, sem greinilega er illt, eru vissulega einatt miklu fastari í þeirri trú sinni en hinir, sem trúa á það, sem gott er og guði þóknanlegt, í sinni trú. Og af því leiðir aftr að sjálfsögðu, að það er marg-oft unnið að efling hinna illu mála af þeim, er þeim fylgja, með meiri alvöru og dugnaði heldr en að góðu málunum, sannleiksmálunum, guðs ríkis málunum, af þeim, er þau hafa ritað á merki sitt. En þótt þetta geti virzt undarlegt, er það þó í rauninni ekki nema það, sem við mátti búast. Það er hœgra að ryðja sér áfram með afli, þegar maðr er að fara ofan á móti, heldr en þegar stefnan er upp á við. Það hallar undan fœti fyrir þeim öllum, er trúa á það, sem er illt. En fyrir hinum er leiðin öll í fangið. Það er miklu auðgengari sú

gatan, sem liggr til helvítis, en hin, sem liggr til himnaríkis. það er hœgðarleikr að sökkva dýpra og dýpra hvort heldr er í veraldlegu tilliti eða andlegu tilliti; og að draga aðra með sér niðr á bóginn veitir líka tiltölulega auðvelt. En það er allt annað en auðvelt, þótt maðr í alvöru trúi á það að halda upp á móti, að ryðja sér braut þangað. Og enn þá torveldara er að fá meginþorra meðbrœðra sinna til að klifrast þessa sömu leið upp á móti.

Fjandmenn Jesú til forna á holdsvistardögum hans stefndu vitanlega niðr á bóginn. Lærisveinar Jesú og vinir stefndu upp á við. Um það kemr öllum kristnum mönnum saman, og lang-flestum þeirra, sem ekki eru kristnir, líka. En berum nú saman framkomu hvors flokksins fyrir sig lengi lengi í þeirri baráttu. Hlýtr ekki öllum að finnast, að fjandmanna-flokkrinn hafi verið meira en lítið einbeittr, — miklu einbeitt-ari en þeir, sem fylltu vinahópinn? Kemr ekki ólíkt meiri kraftr fram hjá þeim, sem voru að berjast fyrir því að fyrir-koma Jesú og hinu guðlega frelsismáli hans, heldr en hjá hin-um, sem elskuðu hann og trúðu á hann? Er ekki auðsætt, hve hjartanlega ofsóknarmenn Jesú voru sannfœrðir um, að hann og hans málefni væri til bölvunar fyrir land og lýð?— hve hiklausir þeir eru í þessari sinni hræðilegu sannfœring? Og að bera svo saman við þá óskeikandi trú vesalings veiku trúna á hið góða málefni og hann, sem á bak við það stóð, hjá lærisveinahópnum. Að hugsa um þessa menn, sem Jesús hafði kjörið til að grundvalla ríki sitt á jörðinni, þá, þegar erkióvinir hans gengu harðast fram í því að hrinda honum út í píslardauðann. Að hugsa um þessi orð Jesú til lærisveina sinna í upphafi píslarsögunnar: ,,Á þessari nóttu munuð þér allir hneykslast á mér.'' Og hugsa um, hve greinilega og grátlega sú spá rættist. Að hugsa um Pétr, fyrst komanda með hina sterku yfirlýsing um, að þó að allir afneituðu Jesú, þá skyldi hann þó aldrei gjöra það. Og hugsa svo um það, hve aum-lega það heitorð var haldið,—hugsa um Pétr í hallargarði œðsta prestsins rétt á eftir sverja og sárt við leggja, að hann hafi aldrei þekkt ,,þennan mann''. Að hugsa um hina þrjá útvöldu lærisveina—og þar á meðal Pétr—hvað eftir annað

sofna út af yfir Jesú í dauðastríði hans í Getsemane. Að hugsa um lærisveinana alla leggja á flótta, þegar Jesús var handtekinn. Að hugsa um allan þann mikla trúarveikleik,—hugleysið og hræðsluna hjá öllum slíkum mönnum. Ef nokkur raunaleg hugsan er til, þá er það hugsanin um allt þetta.—Og að sjálfsögðu heyrir þessi hugsan föstutíðinni til. Hún rís sérstaklega þá upp hjá oss, kristnum mönnum, út af píslarsögu lausnarans.

En vér nemum ekki staðar við þessa stór-raunalegu hugsan. Píslarsagan opinberar ekki að eins veikleik lærisveinanna, heldr líka styrkleik—þeim megin í baráttunni, hinn makalausa, tilbeiðsluverða styrkleik meistarans. Dýrð drottins Jesú blasir þar við, nætrdýrðin í æfisögu hans. Aldrei er trúarstyrkleikr Jesú sem manns eins stórkostlegr, undrunarverðr, óumrœðilegr eins og á krossferlinum. ,,Hann lærði hlýðni af því, sem hann leið''—segir ritningin (Hebr, 5 ,8). Og í ritningunni er það skoðað sem endimark kristilegs trúarlífs að verða hluttakandi í píslum Jesú. Svo það er þá auðsætt, að fyrir þrengingar sínar einmitt eiga lærisveinar hins krossfesta að verða það, sem þeir mest geta orðið. Þeir eiga að læra hlýðni af því, sem þeir líða,—ná staðfestu í trú sinni, fá fasta og óskeikandi sannfœring um dýrmætasta hjartans mál sitt, læra vizku guðs ríkis.

,,Ei vitkast sá, er verðr aldrei hryggr''—segir skáldið;
,,hvert vizku barn á sorgar brjóstum liggr.''—Og
,,Á sorgarhafs botni sannleiks perlan skín;
þann sjóinn máttu kafa, ef hún skal verða þín.''

Hörmungarnar sáru og skelfilegu, sem lærisveinar Jesú tóku út meðan stóð á píslum hans og allt þar til hann birtist þeim upprisinn, voru þeim með öllu ómissandi. Án þeirra hefði þeir ómögulega getað orðið það, sem þeir síðar urðu og þurftu að verða. Á þeirri hörmungatíð dó allt hið ósanna í trúnni þeirra. Og þegar það var dáið, aldáið út, þá gátu þeir eignazt hina makalausu trúarfestu, sem síðar einkennir æfiferilinn þeirra.—Enginn hefir nokkurn tíma orðið mikill maðr í því, sem gott er, án baráttu, þjáninga, hörmunga. Og ekkert verulega mikilsvert sannleiksmál í mannkynssögunni getað komizt af án þrenginga.

Er þá nokkuð að kvarta yfir mótspyrnunni, sem þeir verða fyrir, er nú á vorri tíð berjast fyrir málefni kristindómsins? Eða lífsböli kristinna manna yfir höfuð?—Vér þurfum þess allir við, lærisveinar Jesú, að vér iðulega eigum bágt, ekki að eins með sjálfa oss, heldr líka með það, sem vér trúum á,—til þess að trúarsannfœring vor geti þó á endanum orðið staðföst. Og kirkja vor þarf að eiga bágt til þess að þeir, sem halda uppi merki hennar, krossmerki Jesú Krists, geti að minnsta kosti látið koma fram eins mikinn viljastyrk í baráttunni fyrir hinu góða málefni eins og andstœðingarnir í baráttu sinni á móti því.—,,Þess vegna vil eg''—segir postulinn—,,helzt hrósa mér af bágindum mínum, svo að kraftr Krists taki sér bústað yfir mér'' (2. Kor. 12, 19).

Lofum þá guð og þökkum honum fyrir píslarsöguna,—píslarsögu frelsarans, píslarsögu postulanna, píslarsögu allra góðra manna og málefna, píslarsögu kirkju vorrar, píslarsögu allra þeirra, sem berjast fyrir sannleika sáluhjálparinnar í Jesú nafni.

En það er til píslarsaga, sem engan bjartan blett hefir á sér, engan vonarneista leiftranda yfir sér,—píslarsaga, sem ekki er nema tómt óbotnanda dauðamyrkr. Það er píslarsaga þeirra, sem í sínu mótlæti snúa sér allt af lengra og lengra burt frá sannleikanum, guði, frelsaranum. Þá píslarsögu ætti allir að hræðast.

---

## Frá Íslandi.

**Eftir séra Jónas A. Sigurðsson.**

Fyrir marg-ítrekuð tilmæli yðar, herra ritstjóri, sendi eg blaði yðar lausa pistla úr Íslandsferð minni, sem eg hefi skrifað niðr á hlaupum. Eg skrifa ekki þessi orð af löngun til að gjöra mig merkilegan og því síðr vinsælan; því að því geng eg vakandi, að það er vanþakklátt verk. Kemr mér oft í hug ein uppáhalds-saga dr. Weidners, forstöðumanns Chicago-prestaskólans lúterska, er hann sagði lærisveinum sínum.

Hún var um prest, er í þeim tilgangi að kynnast söfnuði, er hafði í hyggju að kalla hann sem prest, ætlaði að flytja þar

prédikan. Áðr en hann byrjaði guðsþjónustuna heimtu vinir hans hann afsíðis hver af öðrum, til að leggja honum holl ráð og vara hann við safnaðar-skerjunum, svo prestsköllun þeirra fœri ekki í strand. Einn bað hann að nefna ekki ofdrykkjumenn, því þeir væri til innan safnaðarins. Annar varaði við þeirri goðgá, að ávíta léttúð hinna ungu; hinn þriðji bað prest að tala varlega um auðmenn og gróðabrögð, o.s.frv. Prestr gjörðist óþolinmóðr að lokum og spurði vini sína, um hvað hann ætti þá eiginlega að prédika, er þeir hefði varað hann við að tala um nálega alla nútíðarlesti. Og einn Nestor nærstaddr svaraði presti: „Prédikið duglega hegningarrœðu um Gyðinga, því enginn þeirra er í söfnuðinum né verðr viðstaddr."

Eg kannast við, að slík er oft stefna manna. Ekki er alveg ólíklegt, að þeir finnist hjá þjóð vorri, er hugsa svipað og þessir safnaðar-ráðgjafar.—Og þó er það ekki um Gyðinga og þeirra ávirðingar, sem eg ætla að tala, ekki um einhverja fjarlæga þjóðflokka, né dauða einstaklinga, sem þeir velja helzt til umtals, er gaman þykir að bergmálinu af sínum eigin orðum;—heldr skal talað um Íslendinga sjálfa, nútíðarkynslóðina, þó hún sé hörundsár og hafi litla velþóknan á öðru en lofsöngum.

## I.

Íslendingum er það líklega uppgerðarlaust að þykja vænt um Ísland, að minnsta kosti þegar þeir eru því fjarlægir. Um það ber margt vott, meðal annars hinn mikli sœgr af föðurlandskvæðum skáldanna, er skoða má sem nokkurskonar spámenn þjóðarinnar eða Óðins-hrafna, sem segja frá því, sem á sér stað og aðrir hugsa. Stundum fer nú vitanlega þannig, að þegar þessir föðurlandsvinir fara að kynnast föðurlandinu, þegar þeir fara að búa þar og berjast, verðr lítið úr þessum kvæða-kærleik og föðurlands-„*feber*". Hann kulnar þá á stundum eins og kærleikinn í heimilislífinu og mannlífinu yfirleitt.

Tilfinningarlíf hjá þorra Íslendinga er naumast mjög auðugt. Vér erum í því, sem flestu öðru, fátœk þjóð. En áreiðanlegt er það, að hjá þeim Íslendingum, sem erlendis

dvelja, er kærleikr til Íslands og viðkvæm, sorgblandin umhugsun um allt, sem er íslenzkt, aðalþáttrinn í öllu þeirra tilfinningalífi. Fyrir því hefi eg daglega sannanir.—En því fylgir þá einnig það, að menn verða alvarlega að gjalda varhuga við þeim öfgum, sem slíkr föðurlands-kærleikr oft vill leiða menn í, þegar um ástand ættjarðarinnar er talað.

Síðan eg var drengr og man eftir mér hefir þetta, sem eg nefndi föðurlands-,,*feber*", vafalaust gengið að mér. Eg lét þá dragast á tálar af föðurlands-flærð eins ónefnds manns. Ef orðinu hallaði hvað Ísland snerti og ástandið þar, taldi eg því misboðið. Það sat rótgróið í hjarta mínu, þetta þjóðardramb, sem menn anda að sér með norðanvindinum úti á Íslandi. Eg þekkti heldr ekki annað. Vel man eg, hvað mér féll þungt, þegar Einar Hjörleifsson tók fyrst til að rita í ,,Lögberg" um mein mannlífsins þar heima, með hinni einkennilegu glöggskyggni og dómgreind, sem auðkennir þann mann. Tek eg þetta hér fram öðrum til aðvörunar, sem standa ef til vill í sömu sporum sem eg stóð í.

En þó eg játi, að þessi of almenna, öfgafulla ættjarðarást blindi mig ekki lengr, er Ísland mér enn, og verðr víst ávallt, það, sem hin heilaga Mekka er sönnum Múhameðstrúarmanni. Eins og hann snýr sér ávallt til Mekka, er hann biðr og í öllum helgum athöfnum, þannig snýr andi minn ætíð í áttina til Íslands og hins íslenzka þjóðlífs. Eg finn sérstaka ástœðu til að taka það hér fram, í upphafi þeirra orða, sem eg kann að segja um Ísland og ástand þess, að eg í hjarta mínu get fyllilega tekið undir þessa alþýðuvísu brœðranna í Noregi:

,,Jeg elsker alt som er ægte norsk,
fra Folkelivet til Sild og Torsk.
Jeg elsker Bonden i Kofte graa
og Fattigmanden, hvis Seng er Straa.
Af alt jeg elsker dog aller mest
den, som sin Tillid til Gud har fæst."

Með því að setja hér íslenzkt fyrir ,,norsk" táknar þetta erindi nákvæmlega tilfinningar mínar nú gagnvart föðurlandi mínu og fólki þess, þó eg auðvitað hljóti að játa, ef til vill til ama fyrir einhvern vin minn þar heima, að það, að eitthvað er íslenzkt, gjörir slíkt engan veginn lengr rétt né heillavæn-

legt í augum mínum, hafi það ekkert annað til síns ágætis, en hamli ef til vill þjóðar framför og andlegri velgengni.

Mér er það ekki ókunnugt, að eins og Jónas Hallgrímsson, fyrir rúmri hálfri öld liðinni, segir, að fyrir austan hafi menn af prestum, sem öpuðu danskan mann, lært að „tyggja upp á dönsku", þannig er nú til kynslóð um land allt og einnig hér, sem telr það eitt rétt að „tyggja", tala og lifa upp á íslenzku. Þeir, sem nú prédika fyrir þjóðinni, hafa kennt henni þann sið.

Til eru einnig þeir, sem kastað hafa sínum íslenzku öndvegissúlum fyrir borð, ekki til þess að byggja þar sem þær bera að landi, heldr til að losa sig við allt fornt og heilagt, sem fengið var að erfðum með þjóðerni voru. En slíkir munu þó undantekning. Aftr er það fjöldinn, sem eins og hinir loftkenndu andar í Þúsund og einni nótt geymast í flöskunni sinni ár eftir ár og, andlega, öld eftir öld. Sumir loftkenndir íslenzkir andans menn sitja enn innnsiglaðir í flöskunni í þessum skilningi,—eða í orðum skáldsins, er þýddi þetta mikla skáldskaparverk austrlanda á íslenzku,—á „askbotni með askbotn fyrir himin".

Og eg geng að því vísu, að reyni einhver að feta í fótspor fiskimannsins: að losa um innsiglið og leysa fangann úr álögum, eins og í hinni austrlenzku sögu, muni andinn íslenzki all-reiðulegr og láta gremju sína og ógæfu lenda á þeim manni.

Frá því Loðvík Kr. Möller fyrir 65 árum sagði opinberlega um þjóð vora, að hún hneigðist fremr til fróðleiks en trúar,—að „guðhræddir menn hafi Íslendingar aldrei orðið" (sbr. Fjölni I. á bls. 33), og til þess þeir nafnar séra Jón Bjarnason og nú séra Jón Helgason tóku að vekja þjóð sína, hefir fólkinu komið það einna lakast, að minnzt væri á hin andlegu mein þess. Hinn íslenzki kærleiki á helzt að þegja um sannleikann, má jafnvel ekki vera sannorðr.—„Oft má satt kyrrt liggja" er líklega sú lífsspeki, sem þjóð vor almennt kann bezt í sinni opinberu og andlegu framkomu. Stefnan hefir verið sú, að *leyna* og draga dul á meinin, í stað þess að *opinbera* og uppræta þau; og er það algjörlega gagnstæð aðferð þeirri, sem ríkir víðast annarsstaðar í heiminum en á Ís-

landi, að því er snertir mannfélags-meinin, hvort sem þau eru heilbrigðisleg, þjóðfélagsleg eða kirkjuleg.

það er ekki sjaldgæf ásökun, að hina svo nefndu aðfinningamenn skorti kærleika, þar sem það er vitanlega lifandi, einlægr kærleikr, sem knýr þá til að tala. Persónulega getr það ekki orðið nein hagsvon, að hefjast handa gegn viðteknum venjum og eiga í baráttu við þjóð sína, fjöldann og fyrirliðana, heldr hið gagnstœða. Eins og það er ervitt og vanþakklátt, er það eðli mannsins óljúft. því eru þeir líka svo fáir, sem taka á sig það ok.—En þeir, sem gjöra það, tala af því þeir trúa. þeir aga af því þeira elska. Foreldrin aga sín eigin börn á undan börnum náungans, einmitt af því, að þau elska þau meira.

Menn hefði gott af að minnast þess, að enginn hefir talað þyngri ávítunarorðum til náungans og þjóðar sinnar en Jesús frá Nazaret, og kom það vitanlega af engum kærleiksskorti hjá honum, sem var ímynd og upphaf hins sanna, guðlega kærleika.

Eg get ekki vel gleymt því, að fyrsta prédikunin, sem eg heyrði á Íslandi, skyldi óbeinlínis vera bergmál af þeim misskilningi brœðranna heima, að áminningarorð hinna kirkjulegu leiðtoga hér vestra væri sprottin af skorti á bróðurkærleik og sanngirni,—þó þeir væri hvergi nefndir á nafn.—það, sem gjörir hinn kristna nútíðar-Íslending að hinum miskunnsama Samverja, er eftir þeirri kenning, að steinþegja stöðugt, þó hann sjái, að þjóðin hans eða þjóðkirkjan sé að falla í ræningja hendr, eða, sár og svift sínum helga skrúða, liggi lemstruð við alfaraveg af völdum andlegra stigamanna. Að vera þagmælskr í þessum skilningi hefir því verið talin dýrðleg dyggð á landi voru. Og þar sem þjóðlíf er jafn-þröngt og lítið sem vort, er auðvelt að neyða manninn til þess að vera æfilangt í andlegu tjóðri. Enda hefir það vel tekizt. Margir menn, t. d. þjónar kirkjunnar, hafa upphaflega gengið að hinu guðlega starfi sínu með hjartað fullt af kærleika og áhuga fyrir andlegri heill og framför þjóðar og kirkju. En sá hiti hefir of oft dvínað og dáið út.

Náttúran hið ytra er engu kaldari, óblíðari né óstöðugri

á Íslandi, að mér skilst, en hið andlega og innra líf hinna kæru systkina, sem þar ala aldr sinn. Getr vel verið, að kuldi landsins og kjör fólksins eigi þátt í hinum andlegu ísalögum, snjóflóðum og skriðjöklum, sem þar standa andlegum gróðri fyrir þrifum á mörgum stöðum. Og dœmalaust má það þroskaleysi heita, að heil þjóð skuli hvað helzt hafa það fyrir stafni andlega enn í dag, að afsaka ávirðingar sínar og bótmæla brestum sínum.

Enginn hœgðarleikr er það, er þannig er ástatt, að gjöra þjóðlífið að umtalsefni. Hver einasti Íslendingr þykist til þess hafa öll skilyrði, að dœma um slík mál,—að gjörast óhlutdrœgr dómari í sínu eigin máli. Við það bœtist, auk þess, sem þegar var sagt um tilfinningar-afstöðuna gagnvart öllu íslenzku, að sjóndeildarhringr afskekktrar þjóðar er eðlilega mjög takmarkaðr og fátt erlent og uppbyggilegt þar til samanburðar. Danir, sem telja má smáa og í mörgu þroskalitla þjóð, eru helzt fyrirmynd þjóðar vorrar.

Enn er þess að gæta, að þeir menn, sem kynnzt hafa framförum hinna brezku og amerísku þjóða og taka þær svo til samanburðar við ástand Íslands, geta virzt ósanngjarnir í kröfum sínum og dómum. Þeir hinir sömu verða einnig áreiðanlega fyrir miklum vonbrigðum sjálfir, þegar til Íslands er komið, ekki sízt, hafi menn áðr lagt trúnað á framfara-raup sumra blaða þar heima.

Allt slíkt hljóta menn að taka til greina, ef hlutdrœgnislaust skal dœmt um framkomu Íslendinga heima og sömuleiðis erlendis.

Heima á Íslandi er stöðugt verið að dœma um Vestr-Íslendinga, allt þeirra ástand og starf.—Hver maðr, sem að vestan vitjar ættjarðarinnar, verðr eðlilega að kveða upp sinn dóm um ástandið hér vestra. Blaðamenn, rithöfundar og skáld skoða sig sem hinn kjörna kviðdóm í því máli. En auk þeirra eru lang-flestir af landsins sonum, sem eitthvað hafa um oss hér að segja. Vitanlega eru þó þekkingar-skilyrði flestra brœðranna heima, í því máli, færri en vor.—Þekking vor á högum Íslands er, ef til vill, ekki talin nákvæm þar heima, eftir því að dœma, sem vikið hefir verið að séra Jóni Helgasyni.

En all-mikið meira veit þó að sjálfsögðu fjöldi hinna eldri Íslendinga hér um ástand og hætti þar heima en þeir vita um vorar ástœður.

Og í þessu sambandi er það engan veginn fjarri sanni, að minna á þessi orð hins fræga Emerson's, er hann sagði eitt sinn um Ameríku á uppvaxtarárum þess lands: ,,Judge no building while the scaffolding is up.'' Í þeim er fólgin réttmæt afsökun vor, sem um 10 til 20 ár höfum tekið ofr lítinn þátt í uppbygging þess lands. Og sannarlega ná þau orð fremr til vor Vestr-Íslendinga á vorum fyrstu frumbýlingsárum, með algjörlega allt, þó einkum hið andlega starf, á sínu fyrsta myndunarstigi,—heldr en til brœðranna heima, þar sem þjóðfélagið er 1025 ára gamalt—eða 1000 árum eldra en fyrsta landnám Íslendinga hér, og kirkjufélagið nálega 900 ára að aldri, sem vaxa hefði átt að vizku og náð allan þann tíma, er vort kirkjufélag telr lítið fleiri *ár* en kirkja föðurlandsins telr *aldir*.

---

Og með þetta í huga veit eg, að brœðrnir á Íslandi trúa því, að því að eins kom eg til Íslands nú síðast, því að eins hugsa eg og tala um Ísland, að mér er annt um það og að eg feginn kysi að vera í hóp þeirra, er þar taka stein úr götu. Á Íslandi var mér sýndr einlægr bróðurkærleikr. Og mér þykir nú í raun réttri miklu vænna um Ísland og einkum þá menn, er þar stríða, en nokkru sinni áðr. Það er því ekki af kala, ef eg sé hlutina þar í öðru ljósi en þessu ljómanda íslenzka norðrljósi, sem í augum þeirra, er nær þeim búa, varpar dýrðarljóma yfir nálega alla íslenzka hluti.

## Við útför framliðinna.

### Við gröfina.

Prestrinn gengr á undan þeim, er bera líkkistuna, og segir, þegar komið er rétt að gröfinni:

Eg veit, að frelsari minn lifir, að hann mun lengst á jörðinni standa. Og þegar seinna meir hörund mitt, þetta hold, er farið, mun eg sjá guð án holds. Já, hann einmitt mun eg sjá, mín augu skoða hann og ekki annar (Job 19, 25—27).

Fyrst vér höfum ekkert flutt inn í heiminn, þá er það bert, að vér ekkert munum þaðan geta burtu flutt (1. Tím. 6, 7).

Drottinn gaf; drottinn tók; lofað sé drottins nafn (Job 1, 21).

Þegar líkkistan er lögð niðr í gröfina, segir prestrinn:

Maðrinn, fœddr af konunni, lifir stutta stund og mettast af órósemi. Hann sprettr upp sem gras og fölnar. Hann flýr sem skuggi og staðnæmist ekki (Job 14, 1—2).

Í lífinu miðju erum vér í dauðanum. Hjá hverjum öðrum skyldum vér leita fulltingis en þér, drottinn, þótt þú sért oss réttlátlega reiðr sökum synda vorra?

Ó, drottinn guð, sem öllum er heilagri, almáttugi drottinn, ó, heilagi og allra miskunnsamasti frelsari, lát oss þó ekki lenda í hinum beisku kvölum eilífs dauða.

Þú veizt, ó, drottinn, hvað býr í djúpi hjartna vorra. Loka eigi miskunnsömum eyrum þínum fyrir bœn vorri, heldr þyrm oss, allra heilagasti drottinn. Almáttugi guð, heilagi og miskunnsami lausnari, þú, háverðugi eilífi dómari, lát oss ekki á síðustu stund æfi vorrar út af neinu, sem vér þá tökum út, í dauðanum, falla frá þér.

Áðr en mold er kastað á líkkistuna í gröfinni segir prestrinn:

Með því að guði almáttugum samkvæmt kærleiksfullu vísdómsráði hans hefir þóknazt, að taka sál þessa látna bróður vors (þessarar látnu systur vorrar—eða: þessa látna barns) burt úr heimi þessum, þá afhendum vér jörðinni líkama hans (hennar) í von um upprisuna til eilífs lífs fyrir drottin vorn Jesúm Krist, sem mun ummynda líkama vorrar lægingar, svo að hann verði líkr hans dýrðarlíkama, eftir þeim krafti, sem hann hefir til að leggja allt undir sig.

Um leið og moldinni er kastað á kistulokið:

Af jörðu ertu kominn.—Að jörðu skaltu aftr verða.—Af jörðu skaltu upp aftr rísa.

---

Þá má syngja sálm eða sálmsvers. Og að þeim söng enduðum sé ein eða fleiri af bœnum þeim, er hér fara á eftir, fram borin:

Almáttugi guð, miskunnsami faðir, vér grátbœnum þig af óendanlegri gœzku þinni að styrkja oss og varðveita með heilögum anda þínum í réttri trú, svo að vér fyrir hina dýrðlegu upprisu drottins vors fáum huggazt í sorg vorri út af andláti

hans (hennar), sem nú að líkamanum til er lagðr (lögð) í gröfina. Veit oss náð til þess réttilega að bera skyn á hinar mörgu yfirtroðslur vorar og réttláta reiði þína gegn syndinni, að vér af öllu hjarta fáum snúizt til þín og leitað þess, sem uppi er, þar sem Kristr er;—svo vér fáum daglega æ meir og meir dáið frá syndinni, lifað saman í bróðurlegri elsku, þjónað þér í réttlæti og sönnum heilagleik, fyrir trúna á þitt orð orðið undirbúnir undir dauða vorn, og af miskunn þinni endað æfidaga vora í fagnaðarríkri von um sæla upprisu, fyrir Jesúm Krist, drottin vorn. Amen.

---

Almáttugi guð, himneski faðir, vér þökkum þér fyrir það, að þú kallaðir þennan bróður vorn (þessa systur vora) til þekkingar á syni þínum og heilags samfélags við hann, að þú varðveittir hann (hana) í þeirri þekking og þeim félagsskap, og að þú hefir nú tekið hann (hana) burt inn í þína himnesku hvíld. Og vér grátbœnum þig að hjálpa oss með heilögum anda þínum til þess að þekkja syndir vorar rétt og hryggjast af þeim, og styrkjast svo í trú vorri á Krist, að vér í öllum hlutum fáum vaxið upp til hans, sem er höfuð vort, ávallt vegsamað þig í endrnýung lífernisins og glaðir beðið sælu þeirrar, sem er í vændum, og dýrðlegrar opinberunar hins mikla guðs og frelsara vors Jesú Krists, sem með þér og heilögum anda lifir og ríkir um aldir alda. Amen.

---

Miskunnsami og náðugi guð, sem með dauða þíns eingetins sonar hefir breytt hinum skelfilega dómi dauðans, er fallinn var yfir alla menn, og látið hann verða að heilsusamlegum aga fyrir hina trúuðu,—blessa oss dauða þessa ástvinar vors, svo að vér fáum hugsað um vorn eigin dauða eins og vera ber, með trúnni losað hjörtu vor við forgengileg gœði þessa heims, kostgæfilega búið oss undir stundina ókomnu, þá er vér hljótum að fara burt héðan, og að lokum falið oss í þínar hendr, í fagnaðarríkri von fyrirheitinnar upprisu,—fyrir Jesúm Krist, drottin vorn. Amen.

---

Almáttugi guð, sem fyrir son þinn Jesúm Krist, hefir heitið oss því, að gjöra dauðann að engu, og fyrir hvíld hans í

gröfinni hefir helgað grafir þinna heilögu, og fyrir hina dýrðlegu upprisu hans hefir leitt í ljós lífið og ódauðleikann, svo að allir, sem í honum deyja, hvíla í friði og von,—þigg—vér biðjum þig—hjartfólgna þökk vora fyrir sigr þann, sem hann hefir unnið oss til handa, og fyrir alla þá, sem sofa í honum. Og varðveit oss, sem enn þá erum í líkamanum, í ævaranda samfélagi með öllum þeim, sem bíða þín á jörðu, og með öllum þeim, sem umhverfis þig eru á himnum, í sameining við hann, sem er upprisan og lífið, hann, sem með þér og heilögum anda lifir og ríkir einn sannr guð frá eilífð til eilífðar. Amen.

---

Náðin drottins vors Jesú Krists, kærleikr guðs og sameining heilags anda sé ávallt með oss öllum. Amen.

---

## Ný altarismynd.

---

Kirkjan á Mountain eignaðist nýja altarismynd nokkru fyrir jólin. Hún er upphaflega máluð af frægum þýzkum málara, prófessor *Plockhorst*, og hefir hann kallað hana *Noli me tangere* á latínu eða ,,Snertu mig ekki!“ Hún sýnir frelsarann upprisinn á páskadagsmorguninn á því augnabliki, þegar María frá Magdala þekkir hann, og hefir málarinn haft í huga frásögnina í Jóhannesar guðspjalli (20, 15—17). Þar segir, að María hafi komið til grafarinnar og séð, að steinninn, sem hylja átti gröfina, var tekinn frá. Hún fer þá til þeirra Pétrs og Jóhannesar og segir þeim þetta. Flýta þeir sér þá báðir út til grafarinnar, og virðist María annaðhvort hafa fylgzt með þeim eða komið rétt á eftir. Þegar þeir hafa virt gröfina fyrir sér og jafnvel gengið inn í hana og rannsakað allt, sem þeir sáu þar, svo að hver skuggi efans skyldi hverfa úr hjörtum þeirra, fóru þeir heim til sín aftr. En María stendr eftir við gröfina og grætr. Hún fer þá að hyggja inn í hana og sér þar tvo engla hvítklædda, sitjandi, annan til höfða, hinn til fóta. Þeir sögðu við hana: ,,Kona, hví grætr þú?“ ,,Af því“, segir hún, ,,að búið er að taka drottin minn burt.“ En í sama bili varð henni litið aftr fyrir sig, og þar sér hún mann standa, sem hún ekki þekkir. Hún heldr það

sé grasgarðsvörðrinn. Hann segir við hana: „Kona, hvað grætr þú? Að hverjum leitar þú?“ Hún svarar: „Herra, hafir þú borið hann í burtu, þá segðu mér, hvar þú hefir lagt hann, og mun eg sœkja hann.“ Hann talar þá til hennar með nafni og segir: „María!“ Hún snýr sér við og segir: „Rabbúní!“ (lærimeistari); þannig hafði hún ætíð ávarpað Jesúm. Þetta augnablik hefir nú málarinn tekið. Um leið og María þekkir frelsarann og segir: „Rabbúní!“ lætr málarinn hana falla á kné og fórna upp höndum, rétt frammi fyrir honum, eins og hún ætli að faðma hann að sér. En frelsarinn bendir með hœgri hendi til himins og segir: „*Snertu mig ekki*, því enn þá er eg ekki upp stiginn til föður míns; en farðu til brœðra minna og segðu þeim, eg muni upp stíga til míns föður og yðar föður, til míns guðs og yðar guðs.“ Þetta er rétt um sólaruppkomu. Málarinn lætr Maríu krjúpa í skugganum af klettinum, sem gröfin var höggin í; hann gnæfir hátt upp til hœgri handar og er vaxinn grasi og trjám að ofan. En frelsarinn stendr þar sem fyrsti sólargeislinn fellr á jörðina hinum megin við klettinn og allt loftið glóir af dýrð hinnar upp rennandi sólar. Til vinstri handar sést krossinn í fjarlægð.—Málverk þetta er ljómanda listaverk og hin mesta kirkjuprýði. Það sýnir söfnuðinum um leið og hann kemr inn í kirkjuna, hvernig hann á að falla á kné fyrir frelsaranum í tilbeiðslu eins og María. Mynd þessi er gefin kirkjunni af kvenfélagi Víkrsafnaðar, og er vonanda, að þessi fagra gjöf verði til uppbyggingar og blessunar og kenni bæði ungum og gömlum að elska frelsarann og kirkjuna meir eftir en áðr.

F. J. B.

---

„För pílagrímsins“ (*Pilgrim's Progress*) eftir Bunyan, íslenzka þýðingin, sem „Smáritafélagið“ enska lét prenta í London árið 1876, er nú til sölu hér vestra hjá séra Jónasi A. Sigurðssyni, sem á Íslands-ferð sinni fékk sölu-umboð á henni meðal fólks vors hér í landi. Verð bókarinnar (í laglegu léreftsbandi) hjá honum er 60 cts.

Þessi bók ætti að vera í hverju húsi og lesin af öllum. Það er stórkostleg og ákaflega áhrifamikil skáldsaga í líkingarbúningi út af dýpstu trúarraunum kristinna manna. Ein

þeirra tiltölulega mjög fáu guðsorðabóka eða skáldrita, sem aldrei ganga úr gildi eða falla í verði. Þýdd á öll heimsins tungumál eða því sem næst. Meira útbreidd í hinum enskumælanda heimi heldr en nokkur önnur bók, að biblíunni einni undan tekinni. Jafnt lesin af öllum kristnum trúarflokkum á Bretlandi og víðar. Eitthvert allra sterkasta bandið næst biblíunni sjálfri, sem bindr ensku kristnina saman í eitt. Ritað á Englandi í eldraunum ofsókna þeirra, er gengu yfir hinn göfuga höfund, hinn stórgáfaða alþýðuprédikara, á 17. öldinni um sama leyti sem Hallgrímr Pétrsson andaðist úti á Íslandi. Og í passíusálmunum er margt, sem bendir á, hve náskyldir þeir tveir menn, Hallgrímr og Bunyan, hafi verið í andlegu tilliti. Í fyrsta passíusálminum stendr:

,,Yfir hörmungar er mín leið
æ meðan varir lífsins skeið;
undan gekk Jesús, eftir eg
á þann að feta raunaveg.''

Og í ellefta passíusálminum þetta, sem nú mun enn þá meira kunnugt:

,,Krossferli' að fylgja þínum
fýsir mig, Jesú kær'' o.s.frv.

Og síðar í sama sálmi þetta:

,,Í veraldar vonzku solli
velkist eg, Jesú, hér'' o.s.frv.

Það má líta svo á eins og ,,För pílagrímsins'' sé trúarleg skáldsaga út af þessum versum,—mesta skáldsaga þeirrar tegundar, sem bókmenntir heimsins eiga til í eigu sinni.



**Gjafir til bókasafns kirkjufélagsins,** síðan síðast var getið (,,Sam.'' XIII, 5—6):

Frá hr. Hermanni Jónassyni (á Þingeyrum): Búnaðarrit (hans sjálfs), 1.—11. ár. Rvík 1887—1897. Óbd.

Frá séra Jónasi A. Sigurdssyni: För pílagrímsins eftir Bunyan. London 1876. Bd.

Frá séra Þórhalli Bjarnarsyni: Kirkjublaðið, VII. árg., Rvík 1897, og Ný kristileg smárit, nr. 21—25, Rvík 1897.

Frá séra Jóni Helgasyni: ,,Verði ljós!''—áframhald til þessa.

Frá hr. Sigurdi Kristjánssyni í Reykjavík: P. Pétrsson: Smásögusafn IX, Rvík 1898; Ísl.sögur, Rvík 1898: Svarfdœla, Vallaljótssaga, Vápnfirðingas., Flóamannas., Bjarnar s. Hítdœlakappa; Mattías Jokkumsson: Hinn sanni þjóðvilji, Rvík 1898; Vestrfararnir, Rvík 1898, Skuggasveinn, Rvík 1898; Huld VI, Rvík 1898; Morten Hansen: Landafrœði, Rvík 1898; Karl Andersen: Gegn um brim og boða, Ísaf. 1898; Dr. J. Jónassen: Vasakver, Rvík 1898; Indriði Einarsson: Hellismenn, Rvík 1898; Einar Benediktsson: Sögur og kvæði, Rvík 1898; Biblíusögur Tangs, Rvík 1898; Valdemar Briem: Davíðs sálmar, Rvík 1898; G. T. Zoega: Enskunámsbók, Rvík 1898. Allt óbd.

Frá hr. Birni Jónssyni, ritstjóra ,,Ísaf.'' í Rvík: saga Ólafs Tryggvasonar, Rvík 1892; Saga Ólafs helga, Rvík 1893; Ljóðmæli Jóns Ólafsson-

ar, Rvík 1896; Ólafr Ólafsson: Hvernig líðr trúar og kirkjulífinu á Ísl.? Rvík 1892; Jens Pálsson: Alþ.setningar prédikan, Rvík 1892; Bjarni Jónsson: Leiðarvísir við ísl. kennslu, Rvík 1892: Áfengi og áhrif þess, Rvík 1895; Bjarni Jónsson: Málsgreinafrœði, Rvık 1893; Þ. Egilsson: Útsvarið, Rvík 1895; Prestskosningin, Rvík 1894; Hannes S. Blöndal: Kvæði, Rvík 1891; Þorkell Bjarnason: Um Þorlák helga, Rvík 1898; Jules Verne: Höfrungshlaup, Rvík 1892; Handbókarfrumvarp, Rvík 1897; Eiríkr Briem: Hugsunarfrœði, Rvík 1897; Helgi Hálfdanarson: Prédikunarfrœði, Rvík 1896; Saga fornkirkjunnar. 3. hefti, Rvík 1896; Heimilisblaðið, 2 árg., Rvík 1894 og 95; Sögusafn Ísafoldar IV—X, Rvík 1891—98. Allt óbd.

Winnipeg, 23. Febr. 1899.

JÓN BJARNASON.

---

Myndirnar, sem koma í þessu blaði „Sam.", sýna tvær af kirkjum vorum að innan: St. Páls kirkju í Minneota og Fyrstu lútersku kirkju í Winnipeg.—St. Páls kirkja var reist árið 1895, en vígð 1897 um það leyti, er ellefta ársþing kirkjufélagsins var þar haldið.—Fyrsta lút. kirkja í Winnipeg var reist 1887 og vígð 18. Des. það ár. Það er elzta íslenzka kirkjan hér vestra. Og hefir þrisvar verið haldið kirkjuþing í henni: 1891, 1893 og 1898.—Séra Björn B. Jónsson er prestr St. Páls kirkju, en séra Jón Bjarnason Fyrstu lút. kirkju.

---



„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrirfram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, Björn B. Jónsson og Jónas A. Sigurðsson.

PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.